# Dagsbrún.

*Mánaðarrit til stuðnings frjálslegri trúarskoðun.*

I. | GIMLI, MAN. október 1893. | 10.

## Ertu lúþerskrar eða frjálslyndrar trúar?

(Framhald.)

Þá er það kenning kirkjunnar stranglega haldið fram af lúþerskum, að „Öll ritning sé innblásin af Guði“ sjá 2. Tím. 3. 16. og kver H. H. I. kafla. Ef menn fara nú að hugsa nokkuð út í, hvað þetta hefir að þýða, þá rís upp hvert bjargið öðru hærra á götu manna. Ritningin öll er innblásin af Guði, fyr mun heimrinn forganga, en einn bókstafr lögmálsins líði undir lok. Þetta er lúþerska kenningin. Hver, sem því ekki vill bókstaflega trúa öllu því, sem ritningin segir, hann er ekki rétttrúaðr, hann er ekki lúþerskr. Hugsunin er rétt hugsuð hjá þeim herrum, því, ef að hrinda má einum staf úr guðdómlegri bók, því má þá ekki hrinda eins þeim næsta, ef mönnum helst uppi að koma með eina mótsögn milli guðdómlegra sanninda, þá er byggingin hrunin, ef að hægt er að hrekja einn spádóm, guðdómlega innblásinn. þá er öðrum hætt, ef að rengja má eitt guðdómlegt kraftaverk í þessari bók og sýna, að það er náttúrlegt, þá er leiðin opin að sýna og sanna það um annað, að það sé náttúrlegt líka. En með því að öll bygging hinnar lúþersku trúar (ekki frjálslyndrar trúar) er einmitt bygð á þessum bókstaflega innblæstri, þá getr hver maðr séð það, að byggingin fer að riða. þegar einum steininum eftir annan er kippt burtu úr grunninum. En nú er það svo, ég er sannfærðr um það, að þeir eru sárfáir Íslendingar hér vestra, sem trúa því að alt sé guðdómlega satt, sem í ritningunni stendr.

Enginn sá, sem nokkurn tíma hefir jarðfræði lesið getr trúað því, að jörðin sé tæpra 6000 ára, að 6 daga hafi þurft til að skapa jörðina, sem vér byggjum, en að eins part úr degi til að skapa allan hinn óendanlega herskara stjarnanna, eða að Adam gamli hafi safnað saman öllum hinum margbreyttu tegundum dýranna og gefið þeim

nafn, eins hinum útdauðu tegundum, hinna ýmsu tímabila jarðar, sem menn nú nefna á latínu og grísku, tungumálum, sem ekki voru til fyr en svo og svo mörgum hundruðum, jafnvel þúsundum ára eftir daga Adams, að biflíu tali. Hvað skyldi hann hafa kallað geirfuglinn íslenska eða hákarl eða marsvín? sem þó tæplega hafa synt um árnar í aldingarðinum Eden. Til þess að geta nefnt öll dýr jarðar með sínu nafni, þá hefði Adam orðið að vera meiri náttúrufræðingr, en nokkr núlifandi maðr, og, ef hann hefði átt að nefna dýrin á tungu landsmanna þeirra, er búa í landi hverju, þá hefði hann verið málfræðingr meiri, en nokkurn tíma hefir á jörðu verið eða verða mun, því hann hefði þá þurft að þekkja tungumál, sem ekki voru farin að myndast. Til þess að gefa smádýrunum hinum mikroskopisku nafn, hefði hann einnig þurft stækkunargler. Þessu og öðru eins getr enginn maðr trúað. En þótt menn neiti, að trúa því; þá er það hið einkennilegasta, að menn hugsa samt, að þeir trúi hverjum bókstaf ritningarinnar, um leið og þeir neita honum í sömu andránni, því ritningin segir, að Guð hafi látið skepnur jarðarinnar og fugla himinsins koma til Adams, til þess að vita, hvað hann kallaði þær I. Mós. 2, 19. Eða mun nokkr maðr trúa því, að Guð hafi setið til borðs með Abraham og etið brauð og ket, eða því, að hann hafi þurft að ráðgast um við Abraham, hvort hann ætti að hlífa Sódóma eða ekki, eða því, að hann hafi boðið Gyðingum að drepa og myrða saklaust fólk, eins og stendr svo afarvíða í gamla Testamentinu. Ég hefi reyndar heyrt prest einn lýsa því yfir, að hann tryði þessu, tryði því, að Guð hefði innblásið Móses því, að eiginmaðrinn væri undir vissum tilfellum skyldr að taka eiginkonu sína úr faðmi sínum og grýta hana í hel. Gott fyrir kvinnurnar lúþersku, eða hvað? En þó að prestar hafi eða þykist hafa þessa trú, þá trúir alþýða manna ekki þessu, hún er ekki svo djúpt sokkin niðr í spillinguna; hún hefir veglegri hugmynd um Guð, en svo, að hún trúi þessu um Guð, ef ekki er vilt um fyrir henni. Mér þætti gaman að sjá þann alþýðumann, sem tryði þessu, ég vona svo góðs til þjóðar minnar, að þeir séu færri. Þetta voru hugmyndir Gyðinga um Guð, þær voru nú ekki hærri, en þetta, en hverjum ærlegum manni, sem út í það hugsar, þykir svivirðing hin mesta, að ætla Guði slíkt. Eða að trúa því, að Davíð konungr hafi ætíð breytt samkvæmt Guðs vilja, nema í þetta eina sinn, er hann var að ná Betsebu sinni. Hver trúir því, að það hafi verið Guðs boð, er hann lét sníða í sundr með sögum og járnherfum og öxum, ekki einungis karla, heldr og konur og saklaus börn, er hann tók borgina

Rabba, en ritningin segir, að hann hafi gjört það við íbúa þeirrar borgar og „farið svo með allar borgir Ammonssona“. Því trúir enginn ærlegr maðr, að hann hafi þá verið innblásinn af Guði, eða unnið Guði velþóknanlegt verk. En þeir, sem ekki trúa þessu, þeir eru búnir að kasta bókstafnum og geta ekki lúþerskir heitið. Hverjir trúa því, að Guð hafi látið sólina standa kyrra, og tunglið standa kyrt, til þess að Jósúa gæti drepið sem flesta? að Jónas gamli hafi farið niðr um hvalskok, sem ekki er víðara en svo, að maðr getr smeygt um það hendi sinni, og lifað þar í þrjú dægr? Slíkt og því líkt er ekki færandi í stíl við upplýsta menn; þeir gjöra ekki annað en að brosa að því. Eða hvernig er það ekki með kvennfólkið? Í nýja Testamentinu bannar Páll postuli því að tala á mannfundum, þær mega að eins spyrja bændr sína í heimahúsum, þær eiga að vera undirgefnar karlmanninum. Hvaða kirkjufélagskona vill nú halda þessu fram? Er ekki allr hinn mentaði heimr að berjast á móti þessu og halda fram jafnrétti kvenna og karla, og þegar einn eðr annar ætlar að slá hinar rétttrúuðu kvennfrelsiskonur með þessum orðum hins heilaga postula, þá brosa þær að því, enda er það ekki til annars. Eða hugmyndin, sem Páll hefir um hjónabandið, þegar hann er að tala um ekkjurnar í Kor. 7., þá vill hann helst fyrirmuna þeim að giftast aftr, en þó segir hann, að betra sé að giftast aftr, en að brenna. Það er eins og hann sjái engar göfugri hvatir til hjónabandsins, en hinar dýrslegu. Hann talar ekkert um vináttuna, hina hreinu ást, er bindr sál við sál, ekkert um þá unun og ánægju, sem það getr veitt hjónunum, að horfa á og elska góð og skemtileg börn. Hann man ekki eftir öðru, en hinum dýrslegu hvötum, auminginn! Ég held þær verði fáar konurnar, sem vildu skrifa undir þessa hugmynd Páls um hjónabandið, en þó á ritningin að vera bókstafleg og þær lúþerskar.

Eða þrælahaldið. Menn vita það, að um alla ritninguna, þar sem á það er minnst, þá er gengið út frá því, að það sé réttmætt og leyfilegt bæði í gamla og nýja Testam.. Í gamla Testam. segir drottinn sjálfr Ísraelsmönnum, að halda þræla, já, berja þá svo að þeir deyji af, ef þeir að eins lifa „einn dag eftir höggið“. Þetta báru líka Sunnanmenn fyrir sig, er þeir börðust móti Norðanmönnum í þrælastríðinu. Það mátti segja, að menn í rauninni berðust um þessi atriði ritningarinnar, hvort þau væru frá Guði eða ekki. Allr frelsisflokkrinn barðist á móti biflíunni, Sunnanmenn vörðu hana, enda höfðu þeir líka klerkana með sér. Sumir hershöfðingjar

þeirra voru ákaflega biflíufastir, t. d. Stonewall Jackson, hann var strangr biflíumaðr og bænagjörðarmaðr ákaflegr. Norðanmenn allir, sem börðust fyrir frelsi þrælanna, þeir börðust þannig á móti bókstafnum, og vér fylgjum þeim í anda, allr þorri Íslendinga; en vér gætum eigi þess, að með því að vera í anda með Norðanmönnum og á móti þrælahaldinu, þá köstum vér bókstaflegum innblæstri, en menn slá stryki yfir þetta og ætla að þeir geti verið lúþerskir samt, alt fyrir það, þótt þeir kasti aðalhyrningarsteininum, bókstafnum, í sömu andránni.

Menn vita það, að fyrir daga Lúþers var það kirkjan sjálf, kyrkjuþingin með sínum yfirbiskupi, páfanum, sem var óskeikul ritningunni var þá ekki haldið fram, sem óskeikanlegri. En Lúþer og hans liðar hófu uppreisn sína gegn þessu ofurvaldi klerkanna. Það fór þá að kenna margra grasa hjá hinum heilögu, þeir fóru þá að selja syndakvittun og senda menn út um öll lönd til þess, að raka saman fé á þenna hátt. Munkar og prestar seldu mönnum aflausn fyrir drýgðar og ódrýgðar syndir, fyrir rán og þjófnað, fyrir morð og ofríki unnið. Menn gátu d epið föður og móður, bróður og systur og eiginkonu. Menn gátu keypt frændr og vini fyrir löngu dauða úr hreinsunareldinum; þegar silfrið hringlaði í kistunni, þá skrapp sálin í himnaríkissælu. Þegar þetta fór að ganga úr hófi, þá fór mönnum að ofbjóða og fór ekki að lítast á óskeikulleika kennilýðsins og kirkjunnar. Menn fóru að hugsa sig um, hvort það væri nú virkilega svo, að þeir væru óskeikandi, að þeir hefðu guðdómlegt vald til þessa. Skörungrinn Lúþer reis þá upp og hóf baráttu sína gegn þessu ofrvaldi. En í staðinn fyrir þenna óskeikulleika kirkjunnar sá hann að hann varð að koma með annan óskeikulleika, og hann trúði sjálfr á hann. Þetta hið annað óskeikula vald, sem hann setti í staðinn fyrir kirkjuna, það var *biflían*. Hann notaði biflíuna til þes, að hrinda með henni kirkjuvaldinu. Biflían kom nú í staðinn fyrir kirkjuna eða kirkjuvaldið. Hún átti að þýða sig sjálf. Menn máttu nota skynsemina við útþýðingu ritningarinnar, enda var ekki vel hægt hjá því að komast, en út fyrir ritninguna máttu menn ekki fara. Þá voru menn bannfærðir, þá voru menn djöfulsins börn. Það var mjög eðlilegt, að menn færi ekki lengra, en þetta. Menn voru ekki svo leiknir í að nota skynsemina, hvað trúaratriði snerti á þeim tímum, menn voru ekki svo mentaðir, sem nú gerist, alþýða manna kunni hvorki að lesa né skrifa, prentverk nýuppfundið, og biflían

ekki til á öðru máli, en latinu og grísku, og hún var fyrirboðin þorra hinna mentuðu manna til lestrs. Menn vissu því ekki við hverju þeir tóku, þar sem þeir veittu biflíunni guðdómlegan myndugleika. En þetta tiltæki þeirra siðbótarmanna steypti kirkjunni og páfa. Þessir siðbótarmenn, þeir hafa ekki hugsað vel út í það, hvað þeir gerðu, þegar þeir komu skynseminni að. Þeir ætluðu sér ekki, að hún færi út fyrir ritninguna, þeim kom það ekki til hugar. Innan ritningarinnar vébanda átti hún að vera um eilífar tíðir. En úr því farið er að neyta hennar, þá er ekki hægt að halda henni þar, þau takmörk eru svo þröng og óeðlileg og andstæð henni. Það er eins og að hella olíu í eld að fara að neyta skynseminnar við ritninguna. Hún slítr þá hlekki af sér, sem brunnin þráð. Já, ef telja ætti upp alt það, sem menn ekki trúa en þó heyrir lúþersku til, þá veit ég ekki hvar hætta skyldi. Þetta veit fjöldi manna, en þó vilja þeir kalla sig lúþerska. Ég skil það ekki, hefi aldrei skilið það og verð líklega aldrei svo mikill maðr, að ég geti skilið þann hugsunarhátt, nema það að hann er rangr. Menn eru búnir að kasta lúþerskum anda; menn eru búnir að kasta djöfli og víti og eilífum píslum og þannig hreinsa og fullkomna guðs-hugmynd sína, en þá mega þeir ekki fara að uppástanda það, að þeir séu lúþerskir lengr, það er að fara með ósannindi.

En afleiðingin af því að halda mönnum fast við þetta gamla, afleiðingin af því, að prestarnir halda mönnum rígbundnum í hinum lúþersku kvíum, afleiðingin af því, að berja það blákalt fram, að ritningin sé innblásin bók, hún er sú, að menn leiðast til að kasta allri trú. Menn hljóta að sjá það og það er öldungis víst, að menn sjá það að þetta, sem prestarnir eru að fara með, sem guðdómlegan sannleika getr ekki verið það; þegar menn nú sjá þá, sem vera ættu fyrirmynd í sannleika og ö lu góðu, vísvitandi fara með ósannindi, einmitt í þeim málefnum, sem þeim og öðrum ættu að vera heilögust allra, þá leiðir þetta til fyrirlitningar á allri trú; menn kæra sig öldungis ekki um að halda dýra presta til að ljúga að sér, eða láta þá fylla æskulýðinn með lygi, Þeir menn, sem geta búið við það, eru annað hvort samviskulausir eða blessaðar aumingja rolur. Þetta, að berja fram bókstaf og eilífar píslir, það hrindir mönnum eigi að eins frá kirkju og klerkum, heldr meira að segja frá allri trú. Það er frækornið sem trúleysið og trúleysingjar spretta af, en því er nú beti að ég vona, að þeir eru fáir. Margir þeir, sem trúleysingjar eru kallaðir, eru það ekki, oftlega sterkir trúmenn upp á sína vísu.

Tíminn ætti að vera kominn, að menn færu að sýna hreinskílni í trúmálum, óhreinskilnin hefir ætíð illt í för með sér, en aldrei er hún jafnhættuleg og í trúmálum. Menn ættu að bera svo mikla virðingu fyrir sjálfum sér, svo mikla virðingu fyrir Guði, sem þeir trúa á, eða segjast trúa á, að vera ekki að koma fram fyrir hann með tvöfeldni í hjörtum sínum.

Lyftum hátt upp hugmyndinni um hinn heilaga, fullkomna og kærleiksríka föðr á himnum. Það er ósæmilegt, að vera að fara í felur eða launkróka, eða að ætla sér að hræsna fyrir honum, að fara að beita hann brögðum með því að þykjast trúa því og segjast trúa því, sem maðr ekki trúir, Hann hjálpi oss öllum að komast á rétta leið til sín.

---

# Hugmyndir ýmsra þjóða um uppruna heimsins.

(Framhald).

Hugmyndin um að allar lifandi skepnur hafi framleiðslu af jörðunni kemr fyrir í hinu margtekna orðatiltæki: „Móðir jörð", sem finnst hjá mörgum fornum rithöfundum. Œschylos lætr Prometheus kalla: „Ó, guðdómlegi ether og þér margvængjuðu vindar, þér uppsprettur fljótanna, þú hið margfalda bros úthafsins og þú jörð, móðir allra, ég ákalla yðr öll". Þannig ákalla Comanche-Indíánar jörðina sem móður sína og hinn mikla anda sem föður sinn. Mexico-búar ákalla sólina og jörðina „föður og móður vor allra".

Quiché-Indíánar í Guatemala hafa mjög auðuga goðafræði. Hafa þeir sköpunarsögu mjög líka þessum er vér höfum getið. Hún virðist því nær vera þýðing á Ovid og hefir Bancroft sagnfræðingr (ameríkanskr) tilfært hana á hinu upprunalega Quiché-máli, og er hún þannig:

„Himininn var myndaðr og takmörk hans fastákveðin mót hinum 4 áttum af skaparanum og heimssmiðnum, móður og föður als hins lifanda, af honum fyrir hvern alt hreifist föðurnum, friðgjafa manna, er alla hluti hefir upphugsað með speki sinni.

Enn var enginn maðr, ekkert dýr, enginn fugl, eða græn jurt eða tré. Yfirborð jarðar sást ekki, ekkert nema hinn kyrri sjár og

himinrúmið. Ekkert var samantengt, ekkert fest við annað, ekkert var í jafnvægi og ekkert hljóð. Ekkert var til nema sjórinn kyrr. einn, hreyfingarleysi og þögn, myrkr og nótt.

Einn var skaparinn, heimssmiðrinn. og hinn fjöðrum búni höggormr, grænn og blár; nafn hans er Gu-cumatz, eða hinn fjöðrum búni höggormr. Þeir eru hjarta himnanna; þeir töluðu saman og réðu ráðum sínum og skiftu hugsunum sínum. Þeir sögðu: „Jörð", og jörðin kom eins og ský eða þoka; síðan risu upp fjöllin og trén komu á jörðina, og Gu-cu-matz fyltist gleði og sagði: „Blessuð sé koma þín, ó! hjarta himnanna! Verki voru er lokið".

Er þetta að eins sýnishorn af sköpunarsögu þeirra Quiché–Indíána.

Ef vér bregðum oss yfir Alantshafið austr til Evropu og skoðum hugmyndir hinna norrænu þjóða þá hittum vér fyrir hinar sömu hugsanir í Eddu, Þar segir Hár svo:

"Ár var alda
þat er ekki var;
var-a sandr né sær,
né svalar unnir
jörð fanst eigi
né upphiminn;
gap var Ginnunga,
enn gras ekki.

Enn Jafnhár mælti: fyrr var þat mörgum öldum, enn jörð var sköput, er Niflheimr var gjörr............ þá mælti Þriði: fyrst var þó sá heimr í suðrhálfu, er Múspell heitir. hann er ljóss ok heitr, svá at hann er logandi ok brennandi; er hann ok ófærr þeim, er þar eru útlendir, ok eigi eigu þar óðul. Sá er Surtr nefndr, er þar sitr á landsenda til landvarnar; hann hefir loganda sverð, ok í enda veraldar mun hann fara ok herja, ok sigra öll goðin ok brenna allan heim með eldi".

Nú mætast þessir tveir heimar, Niflheimr vondr og kaldr og Múspellsheimr logandi heitr; að norðan hleðst upp ís og hraun, en að sunnan kemr hitinn úr Múspellsheimi og bræðir ísinn; og af samverkun þessara tveggja krafta skapast mannsmynd og var það Ýmir jötunn, ættfaðir Hrímþussa, því þegar Ýmir svaf, þá spratt undir vinstri hönd honum maðr ok kona, og annar fótr hans gat son við öðrum og eru þaðan komnir Hrímþussar.

En auk Ýmis skópst kýr sú, er Auðhumla heitir við það er hrímið draup, þá er hitanum úr Múspellsheimi sló á móti kuldanum úr Niflheimi. Runnu fjórar mjólkurár úr spenum hennar og við það

fæddist Ýmir. En kýrin sleikti hrímsteina þá er saltir vóru og hið fyrsta kveld kom úr steinunum mannshár, annan dag mannshöfuð, þriðja dag var það allr maðr, sá er nefndr Buri og átti son er Börr hét. Börr fékk Beslu dóttr Bölþorns jötuns og átti við henni þá Óðin, Vala og Ve. Þeir bræðr sköpuðu hina fyrstu menn Ask og Emblu af trjám tveim, er þeir fundu á sjáfarströndu.

Sköpunarsaga þessi virðist benda á framrás, evólútion, fremr en einn alheims-skapara, og líkist einkum hinni gömlu sköpunarsögu Persa hjá Zóróaster, an þar stendr þó alheimsskaparinn, er þeir kalla Zerana-Akerane á bak við heimssköpunina, því hann er það, sem fyrst skapar ljósguðinn Ormazd og myrkraguðinn eða djöfulinn Ahriman; en svo skapa þeir aftr heiminn. Væri og eigi furða þótt skyldar væru hugmyndir hjá Persum og Norðmönnum, því báðar þjóðirnar eru komnar af hinni sömu móðrþjóð hinum gömlu Aryönum.

Á eyjunum í Kyrrahafinu eru undarlegar goðasagnir. Öll sköpunin leiðist þar fram af einum punkti, er það kölluð rót tilverunnar. Heimarnir eru þrír. Hinn æðsti er andaheimrinn og er honum skift í sjö himna, er liggja ofar göngu tungls og sólar. Hinn annar heimr inn eru eyjar þær, er eyjarskeggjar byggja. Hver eyja hefir sinn sérstakann anda; utan um hverja eyjuna liggr útsærinn, er nefnist hið mikla útþanda Plantain-blað (plantain er einskonar tré). Þriðji heimrinn er undir eyjunni og kallast „A-via-ki". Undirheimr þessi er holur innan, sem kokoa-hnot. Fyrir neðan hann er trjábolr einn, mikill, er mjókkar einlægt niðr, uns hann stendr á litlum punkti einum. Á þeim punkti hvílir allr heimrinn, og er hann kallaðr „rót allrar tilveru". Frá þessum undirstöðupunkti hefir allr heimrinn æxlast, frá honum er öll tilvera komin. Puuktr þessi stendr þarna kyr, en þó er hann gæddr einskonar yfirnáttúrlegu lifi. Þegar frá punktinum dregr upp í trjábolinn, kemr þar annar andi, er nefnist „lífið" eða sá „er dregr andann". Fyrir ofan hann kemr enn einn andi í bolnum er nefnist „tími" eða „hinn langlífi". Fyrir ofan anda þenna, neðan við sjálfan undirheiminn, byggir „hin mikla móðit". Hún skapaði hinn fyrsta mann. Líkaði henni hann svo vel, að hún skapaði fimm menn aðra og búa þeir sinn á hverjum stað í undirheimi. Efra hluta undirheims þessa byggir „Avatea"; liggja göng tvö frá bústöðum hans upp í mannheima. Fara sól og tungl eftir göngum þessum, er þau ganga í kring um jörðina, „Avatea"

þessi var faðir Guðs og manna, heitir bústaðr hans „landið þunna“, undir því er annar staðr er byggir annar sonr hinnar „miklu móður“, er nefnist „hinn ótölulegi“, er hann sjóguð, faðir og skapari allra fiska.

Enn þá neðar í undirheimum er aðsetr fuglaguðsins, er skapað hefir alt það, er í lofti flýgr. Fjórða barnið hinnar miklu móður er „bergmálið“ (echo), það byggir hola kletta. Þar fyrir neðan byggir gyðjan „Raka“ eða „Mæða“, stýrir hún vindum og geymir storma í lokaðri körfu, en sleppir þeim út, er henni sýnist. Neðst allra, við hlið hinnar gömlu móður, er hið sjötta barn hennar er nefnist „Fastheldinn við móður sína“. Býr það með henni í „landi þagnarinnar“ og heyrist þar aldrei hljóð.

Þetta er að eins ágrip af sköpunarsögu þeirra, en eftir henni að dæma byrjar öll tilvera á einum óbreytanlegum punkti, smástígr svo upp, uns það verðr að lífi. er andar, síðan að hinum ævarandi tíma, þá kemr tímabil framleiðslunnar, „hin mikla móðir“ og heldr svo áfram á æðra og æðra stig. Þannig smáþroskast það og æxlast upp í ljósheiminn, frá hinum dimma meðvitundarlausa afgrunni, og verðr einlægt fullkomnara og fegurra, eftir því sem ofar kemur.

(Framhald næst.)

---

# Athuganir við sköpunarsöguna.

(Framhald.)

## IX.

### *Plöntu-sköpun.*

Vér höfum nú farið nokkrum orðum um aðalsköpun hinna dauðu hluta, um það, hvernig jörðin og heimarnir hafi vafist saman í hnattmynd, hafi verið hitaðir, lýstir, hvernig efnin hafi blandast saman, hvernig krystallar hafi myndast, um kletta–undirlögin, og hvernig vatnið hafi þvegið þau, en loftið legið sem kápa eða þak yfir hnettinum. En þegar vötnin fara að safnast saman og slímið að setjast í botninn og leðjuna, þá fara hinar lifandi verur að koma fram í fjölbreyttari og flóknari samansetningu, en nokkurt efni annað, með aðdáanlegri byggingu, en nokkur krystall. Þessi hin nýja sköpun byrjaði með og var byggð upp af undarlegum heildum: *lifandi kompum* (cells)

Þessar kompu-ögnir (cell spheres) voru smærri, en nokkur þoku-ögn og þó undarlegri en sólirnar, því í þeim fólst kraftr til að lifa og vaxa, til að skiftast í sundr og æxlast. Þær voru nýir heimar, er áttu að fæða af sér æðra andlegt líf.

Hinar lægstu lifandi myndir eru hinar einstöku kompur (cells), eru þær svo einfaldar, að menn vita varla, hvort heldr skuli telja þær til jurta- eða dýraríkisins, og hefir hvorutveggja verið gjört. Margir ætla, að lífið hafi byrjað í þessum lágu almennu myndum og hafi svo kvíslast í jurta og dýraríkið. Jarðfræðingarnir ráða það af járn- og graphit–lögum á frumtímabilinu, að mikið hafi þá verið af plöntulífi, en svo smágjört, að nú sjást lítil spor af því.

En þegar á fornaldartímunum (palaiozoiska) eru plönturnar orðnar stórar og margbreyttar, og finnast miklar leifar þeirra í klettalögunum. Á silúriska tímanum finnum vér ýmsar þang og þarategundir, sem sýnishorn af sjáfargróðri þeim, er sköpunarsaga ritningarinnar gleymir að geta um ; en sá gróðr hafði verið í blóma um löng tímabil, áðr en nokkurt líf myndaðist á þurlendinu. Á devonska tímanum koma landplönturnar með rótum og stöngli, og loks klæddar blöðum. Á kola-tímanum urðu plöntur þessar háar sem tré og voru saman í afarþéttum skógum og mosakendum fenum, bæði sefplöntur ýmsar og burknar, og blómstruðu þegar fram á permska tímanum. Í skógum þessum voru blöðin og burknarnir aðaleinkennið. Þessar unaðsfögru plöntur. svo undarlega bygðar drógu til sín um ótal munna hið ósýnilegu kolefni, hlóðu þvi upp í hinum risavöxnu stönglum, hreinsuðu þannig loftið og mynduðu kolalögin, sem vér nú gröfum svo víða upp úr jörðu.

En á næsta tímanum, miðaldartímanum (mesozoiska), þá fyrst sjáum vér að *fræið* fer að koma fram. Hinar lægri plöntumyndir höfðu einkum æxlast þannig, að kompa myndaðist af kompu, eða því, að kompurnar (cells) klofnuðu í tvent. En nú fóru að koma fram æðri tegundir, trjátegundir með krónu og fræi. Þetta varð aðaleinkenni plönturíkisins á trías- og júra-tímabili mesozoiska tímans. Þá loksins koma grösin, sem ritningin lætr plöntusköpunina byrja á. Svo koma hinar æðri plöntutegundir, angiosperma, og á krítar-tíma bilinu koma síðar, poplar, eik, lúckorie, bækitré og sykrviðir; þá fara og að koma enn æðri tegundir jurta og aldinviða með blómum og blöðum.

Þegar vér erum að lýsa sköpuninni, þá megum vér ekki hlaupa yfir *blómið*, því það er fyrirmynd æðri aðdráttar milli karlkyns og

kvennkyns. *Aðgreiningin* milli karlkyns og kvennkyns kemr mjög snemma fyrir hjá plöntunum. Það sjáum vér jafnvel hjá þang og þarategundum, en í fullri fegrð sjáum vér fyrst afl þetta verkandi hjá blómstrum þeim er blöð hafa. Hér sjáum vér verulegt hjónaband með forboði um familíu og heimili. Ef til vill þekkja hjónaefnin hvorugt annað, en vindgolunni hefir komið til hugar, að stofna til hjónabands milli þeirra, og hefir borið brúðgumann á vængjum sér langar leiðir, eða þau hafa vaxið upp, sem nágrannar eða frændr. En þau ganga i bókstaflegt hjónaband. Stöngullin er skrýddr brúðkaupsklæðum, blöðin koma í mjúkum klæðum, sem gestir eða vitni Ýmist eru krónublöðin í skínandi hvítum skrúða eða bláum, eða þá að slær á þau rósrauðum feimnisroða, er þau þyrpast utan um hjónaefnin sem brúðarmeyjar og brúðarsveinar. Veisluborðið er alsett hunangi og goðaveigum og angarsætr ilmrinn af því allavega, en kærleiksylr, ímynd ástarinnar, fer um brúðrina og með opnum örmum tekr hún kveðju blómstrduftsins og vígslunni er lokið. Hið nýfædda blómstrbarn liggr lengi á brjóstum móðurinnar, og vaggast á blómstrbikarnum, uns það er orðið fullþroska og getr framleitt nýtt afkvæmi, þá berst það burtu annaðhvort af einhverju dýri eða fugli eða vindinum og dreifist út á öðrum stað. Þessi framleiðsla blómstranna og ávaxtanna hefir verið og er enn æ hin sama, og skorkvikindin og dýrin, eða vindrinn færa brúðurinni jafnan ástvin sinn. Þegar sköpunin er komin á þetta stig, þá erum vér komnir að hinu margbreytta og fagra plönturíki, eins og það er enn þann dag í dag.

Hvílík sköpun var það ekki ! Hálfi dagrinn, sem ritningin lætr skaparann hafa til þess, verðr að þúsundum ára, svo mörgum, að vér getum ekki talið þau. Meiri hlutinn af hinum elstu tegundum plönturíkisins er löngu útdauðr og undir lok liðinn. En vér getum fundið þessar útdauðu tegundir í steingjörðri mynd í klettunum heilir fjallgarðarnir eru stundum afarmiklar líkhrúgur þeirra. Stundum er þeim þrýst saman í afarmikil lög, er liggja mílum saman undir fótum vorum. Og ef vér flettum blöðunum í þessum risalegu plöntubókum, þá sjáum vér sýnishorn af óendanlegri þolinmæði og margbreytni sköpunarinnar. Fyrst voru skapaðar hinar sílúrisku sjóplöntur með einfaldri kompubyggingu, en fram af þeim spruttu hinar tígulegu eikr og hin fagrvöxnu álmviðartré, aldingarðarnir voru glóandi og blikandi af blómum og aldinum.

**En hvernig var nú verk þetta unnið? Var hver tegund sköpuð**

sérstaklega, eins og lengi hefir verið álitið, eða er alt framkomið af hinu sama frumfræi. Flestir vísindamenn ætla það. Jarðfræðingarnir hafa séð það, hvernig hinar gömlu tegundir hafa smátt og smátt breytt sér og grasafræðingarnir hafa tekið eftir því, að tegundir þær, sem nú eru á jörðinni, laga sig hver eftir annari, eftir loftslagi og jarðvegi og breytast hægt og hægt og báðum kemr saman um, að þessi sköpun öll sé af einni mynd sprottin. Þeir eru einnig samdóma um það, að þessi sköpun sé náttúrleg, sem öll önnur sköpun, framleidd af lögum, sem jörðinni eru eðlileg. Þar sem gamla sagan segir „jörðin framleiði“, þá segja vísindin: „jörðin framleiddi“; þau segja að sköpunin hafi verið eðlileg og reglufösst, að ein tegund hafi sprottið af annari, alt fyrir náttúrulögmál, á þann hátt, sem kallað er evolution (náttúru framleiðsla). Vér getum ekki heldr neitað því, þar eð vér daglega horfum á þessa náttúrúframleiðslu í plönturíkinu.

Þessi sköpun heldr einlægt áfram. Taktu eftir því á sumardegi, þegar vötnin hafa „safnast saman“ í litla dæld í götunni, þá úir og grúir þar alt af plöntulífi að fáum stundum liðnum. Settu dropa einn af vatni þessu undir stækkunargler og muntu sjá mesta urmul af smáum syndandi kompum. Fyrir augum vorum koma þær fram úr hinu ósýnilega eins og lífið í hinum fornu Laurentinsku vötnum. Taktu eftir slíminu sem safnast ofan á einhvern stöðupollinn; það er ljótt og hálfviðbjóðslegt útlits, en þar getr þú séð kompurnar skiftast í sundr og teygjast úr þeim, þær verða að löngum þarakendum þráðum, ljómandi fallegum; þar sést hin dásamlega sköpun hins langa siluriska tíma, því er öllu þrengt þarna saman á einn stað í stöðupollinum í götunni.

Af líkum smákompanna koma hinar stórvöxnu þangtegundir úthafsins, sem hver ein er lengri, en nokkur trébolr, sömuleiðis mosategundir og burknar á steinkolatímanum. Viðlíka smákompa vex og verðr að furuhnot og furutré eins og á permska tímabilinu, eða akarni og eik eins og á krítar-tímabilinu. Allar jurtamyndir frá svömpum til magnoliutrés, frá myglubletti í osti til hinna tröllauknu sedrusviða í Californiu koma af einstökum kompum, svo líkum, að torvelt er að þekkja eina frá annari. Og eins og í fyrndinni myndast þetta alt af náttúrlegum vexti eðr evolution. En alt að einu er það alt sköpunarverk hinnar leyndardómsfullu skapandi veru og máttar, sem vér nefnum Guð,

Á hverju ári kallar höfundr lífsins, eins og á hinum þriðja degi, og býðr grasinu að spretta á mörkum, er nýlega voru harðar af frosti, sem steinar, og alt sumarið býðr hann jurtunum að gefa fræ af sér, Þessi undarlegu frækorn geymast undir snjónum á vetrna, þeim er þar óhult í hinni guðdómlegu hendi og þar bíða þau upprisu sinnar. Hið gamla boðorð: „leiði jörðin fram“, er enn þá talað yfir hverjum dropa vatns, yfir hverri smáögn duftsins. Þessari röddu hlýðir hvert tré skógarins og hvert grasstrá merkurinnar.

Framhald.

---

# Hugleiðingar um ritninguna.

[Framhald.

Nú skulum vér taka enn önnur atriði ritningarinnar, sem ómögulegt er að samrýma við óskeikulleika hennar. Skulum vér fara stutt yfir og taka að eins sýnishorn af því afarmarga, sem til mætti týna, .

2.) Í ritningunni kemr fyrir bæði *bull* og *endileysa*. Vér skulum að eins taka söguna um konuna, sem sköpuð var þannig, að Guð „tók rif úr síðu Adams og gjörði þar af konuna“; sögurnar um hinn talandi höggorm og hina talandi ösnu; um Jónas, sem átti að lifa 3 daga í hvalsmaga (Matt. 12, 40) um Nebúkadnesar, sem átti að eta gras eins og uxi í sjö ár. Þegar vér rekum oss á aðrar eins sögur og þessar í einni eður annari ritningu annara þjóða, þá kemr oss ekki til hugar sú vitleysa, að trúa þeim. Þær eru og verða alla daga vitlausar, ef á að taka þær bókstaflega, en ef vér skoðum líkar sögur í öðrum biflíum, sem þjóðsögur eða gamlar goðasagnir, þá getum vér haft gagn af þeim og sumar þeirra geta þá fengið á sig fegurðarblæ. En þá er líka helgi bókanna farin.

3.) Eru *sögulegar villur*. Ritningin hefir inni að halda margar frásagnir, sem eru sögulega rangar. Vér skulum taka t. d. það, er Lúkas segir, að Augustus Rómverjakeisari hafi látið það boð útganga, að taka skyldi manntal um allan heim; þá átti Kyrenios að vera landstjóri á Sýrlandi, þá átti Jósep og María að fara til Betlehem, ættborgar Jóseps, til manntals, og meðan þau voru þar fæddist Kristr. Í þessari frásögu eru að minsta kosti 3 villur. Fyrst er nú það, að sagan getr hvergi um, að manntal hafi fram farið um alt

Rómaríki, því síðr um heim allan. Í öðru lagi er það reyndar satt, að Kyrenios (Quirinus) lét taka manntal í Palaestinu, en það var að eins í Júdeu og Samaríu, sem manntalið var tekið, en ekki í Galileu. þar sem Jósep átti heima, og gat því ekki átt við mann, sem eins og Jósep bjó í Galileu. Og í 3. lagi fór manntal þetta ekki fram fyr, en tíu árum eftir dauða Heródesar, í staðinn fyrir, að Lúkas lætr það fara fram meðan Heródes er á lífi. Og loks er hin 4. villan, því landstjóri sá, sem var á Sýrlandi, þegar Kristr fæddist, hét ekki Kyrenios eða á latnesku Qvirinus, heldr Quintus Sentius Saturnius.

Vér getum og tekið annað dæmi. Í Matt. 23, 35. er það sagt, að Gyðingar hafi drepið Zacharias Barachiasson milli musteris og altaris. En þetta er villa, því það var Zacharia Jehójadason, sem þeir drápu þar, og var það alt annar maðr. Sjá Kron. 24, 20.—22., en Zacharia Barachiasson lifði 230 árum seinna. Af þessum og öðr um eins sögulegum villum má nóg finna í ritningunni.

4. *eru vísindalegar villur*, er nóg til af þeim í ritningunni. Sýnishorn af þeim er frásaga Mósésar um sköpunina, sagan um syndaflóðið, um turninn Babel, um það, er sólin stóð kyr að boði Jósúa og tunglið. Menn hafa reynt að samrýma þetta og annað eins við vísindin, en til þess að koma því heim, þá hafa menn þurft að umsnúa orðum og setningum og láta orðin þýða alt annað, en þau þýða, og mundu menn hvergi þola annað eins annarsstaðar, en við biflíu-skýringar, eða biflíudeilur. Og svo er það magnað, að skýringar þær umhverfa allri ræðu manna og þýðingu orða, svo að málið verðr vitleysa ein og endileysa.

Vilji menn kynna sér þetta betr geta menn lesið í „Genesis and Geology“ by Wm. Denton, „The Deluge in the light of Modern Science“ by Wm Denton; „The Bible and Science“ by John Weiss; „The Cenflict Between Religion and Science“ by J. W, Draper; eða „The Waifare of Science“ by President A. D. White.

(Framhald síðar).

---

*SMÁVEGIS.*

Hinir nýju Grundtvígianar nefnist kirkjuflokkr einn í Danmörku, þeir áttu fund með sér í Kolding-bæ fyrir skömmu og voru þar mættir 1000 manns, Þar var því lýst yfir, að ritningin se ekki Guðs innblásið orð heldr sé það góð og merkileg fræðibók, skrifuð af mönnum án guðlegrar tilhlutunar. Djöfullinn væri afgömul guðfræðisleg kredda, er guðfræði hinna upplýstu tíma ekki gæti kannast við, Kristr var ekki Guðs sonr í þeirri merkingu, sem guðfræðin hefir lagt í það. heldr væri hann hinn guðdómlegasti maðr sem lifað hefði á jörðu og væri með eftirdæmi sína og kenningum vegrinn til guðs-ríkis, sannleikrinn og lífið.

# Spurningar til hinna orthodoxu.

7. Hvernig stóð á því að Drottinn skyldi iðrast þess, að hafa skapað manninn á jörðunni. 1. Mós. 6, 6.? Var hann þá ekki alvitr, þegar hann skapaði hann í fyrstu, svo að hann sæi fyrir fram, hvernig fara mundi Og því var hann að drekkja mannkyninu í syndaflóðinu, þegar þessir nýju menn urðu þá ekki betri, en reynd hefir á orðið?

8. Drottinn segir: Sjá eg vil opna yðar grafir, reisa yður mitt fólk upp af yðar gröfum og leiða yður inn í Ísraelsland. Þér skuluð þá við urkenna, að eg em Drottinn, þegar eg opna yðar grafir og reisi yður mitt fólk upp af yðar gröfum. Eg vil láta minn anda í yður, svo að þér skuluð lifna og eg skal koma yður aftur inn í yðar land". Esekíel 37, 12—14. Hvenær rættist þetta loforð Drottins til Gyðinga? Eða tók spámaðrinn þetta upp hjá sjálfum sér? Hræddr er ég um, að þeir hefðu ekki verið hressilegir, moldugir upp úr gröfunum fúnir og rotnir. En skrítið er það, að ekki er getið um hana, þessa sveit hinna dauðu, er Gyðingar komu aftr í Kanaansland. Líklega hefði þó flestum orðið starsýnt á hana.

9. Í Hebrea-brefinu 7. kap, 3. v., er getið um Melkisedek, er kom á móti Abraham forðum að þakka honum fyrir sigrinn á konungunum, er hertóku Lot. Þar segir postulinn um Melkisedek v. 3.: „Hann átti hvorki föður né móður, eða ættlegg, hvorki lífs upptök, né lífsendir, og líktist í því Syni Guðs, að hann er kennimaður að eilífu". Melkisedek gamli hefir því átt að vera óskapaðr, hann hefir ekki einu sinni verið eingetinn, heldr sjálfgetinn. Hvar skyldi hann vera núna, því fyrst hann var í manns.líkama á dögum Abrahams og hafði ekki lífsendir, þá hefir líkami hans ekki átt að geta dáið. Vér skyldum vera þeim ofr þakklátir, sem gæti sagt oss, hvar hann væri karltetrið. Það hefði margr maðrinn gaman af að sjá hann.

10. Hvað var kona Abrahams skyld honum?

11. Hvernig stendr á því að menn skuli vera að úthúða Mormónum fyrir fjölkvæni, þar sem hinir heilögu menn í ritningunni, mennirnir eftir Guðs hjarta, höfðu húsin full af konum, Abraham, Jakob, Salómon, Davíð og ótal fl.? Mormónar halda einmitt fast við ritninguna, og hver og einn rétttrúaðr, hvort heldr það er karl eðr kona, ætti því að halda fram fjölkvæni, að dæmi hinna heilögu feðra. Eða er það svo, að menn séu farnir að reka sig á það, að þetta muni ekki vera verulegt Guðs boð, að hafa margar konur, og því hafi menn farið að óhlýðnast ritningunni í þessu?

12. Í Dóm.b. 1, 19. stendr: „Og Drottinn var með Júda, svo hann gat unnið þá, sem í fjöllunum bjuggu; en ei fékk hann útrekið dalbúana, því þeir höfðu járnslegna vagna". Var það nú virkilega svo, að Guð almáttugr yrði þarna vanmáttugr á móti dalbúunum? Ástæðan fyrir því, að hann gat ekki útrekið þá er þarna talin sú, að þeir höfðu járnslegna vagna.

13. Í 3,kap.Dómarab. stendr, að Drottinn hafi látið heiðingja vera eftir í Kanaan „einkum til þess, að Ísraelsbarna niðjar skyldu læra að heyja orustur". Þeir áttu að læra að deyða, læra ófrið og styrjöld, en ekki frið. Ætli að það hefði ekki verið eins affarasælt fyrir þjóðirnar, ef þær hver um sig, hefðu lært að komast hjá ófrið og styrjöldum, lært að lifa saman í einingu og bróðrkærleika? Menn eru að minsta kosti farnir að prédika á móti styrjöldum, prédika á móti þessari uppfræðingu Drottins til Ísraelsmanna.

*NÝ-ÚTKOMIÐ:*

# Um bókstaflegan innblástr ritningarinnar.

Fyrirlestr eftir *M. J. Skaptason.* Kostar í kápu 25 cents, fæst hjá eftirfylgjandi mönnum: á Gimli hjá höfundinum og í bókverzlun G. M. Thompsons, í Winnipeg hjá Einari Ólafssyni, í Dakota hjá Skapta Brynjólfssyni, Mountain; Birni Halldórssyni Mountain, Thorl. Thorfinnssyni, Hallson; og B. F. Jósafatssyni, Pembina.



## Athugið!



Heiðruðu kaupendr Dagsbrúnar. Ef þér unnið blaðinu, þá styðjið að útbreiðslu þess, og hvetjið hver annan til að borga það. Því að eins getum vér haldið því fram að kaupendr standi í skilum við oss. Ef ekki, verðum vér að minnka það eða fresta útkomu þess. Standið með oss og látum ekki blaðið falla, höldum því og málefninu uppi. Það gjörist með því að borga hið allra fyrsta. Borgið, svo höldum vér áfram með næsta ár.

**Sunnanfari.** Útsölumenn SUNNANFARA í Vestrheimi eru Chr. Ólafsson, 575 Main Str., Winnipeg; Sigfús Bergmann, Garðar, N. D.; G. S. Sigurðsson, Minneota, Minn., og G. M. Thompson, Gimli, Man. Hr. Chr. Ólafsson er aðalútsölumaðr blaðsins í Canada og hefir einn útsölu á því í Winnipeg. Verð $1.00.

Útsölumenn blaðsins biðjum vér svo vel gera, að endrsenda það af blaðinu, sem þeir hafa ekki von um að seljist.

Hve nær sem kaupendr að „Dagsbrún" skifta um bústað, eru þeir vinsamlega beðnir að senda skriflegt skeyti um það til G. M. Thompson

☞ *G. M. Thompson, er „business manager" og féhirðir fyrir blaðið.*

„DAGSBRÚN" kemr út einu sinni á mánuði hverjum, verð $1.00 um árið í Vestrheimi; á Íslandi Kr. 2.00, greiðist fyrir fram. Send til Íslands en borguð hér $0.75.——Skrifstofa blaðsins er hjá Magn. J. Skaptason, Gimli, Man. Canada.

*Ritstjóri: MAGN. J. SKAPTASON.*

*Prentað hjá G. M. Thompson—Gimli*